Öreigar og kúgaðar þjóðir heims sameinist!

# Stéttabaráttan



Málgagn Kommúnistaflokks Íslands/Marxista-Lenínista

22. tölublað — Þriðjudagur 30. 5. 1978 — verð kr. 100. -



## Útvarpsráð vill útiloka Kommúnistaflokkinn úr fjölmiðlum

Útvarpsráð er skipað er fulltrúum Sjálfstæðisflokksins, Framsóknar og Alþýðubandalagsins, hefur ákveðið að útiloka Kommúnistaflokkinn auk fimm annara flokka er bjóða fram til alþingis, frá umræðum í útvarpi og sjónvarpi.

Við þessar alþingiskosningar hafa komið fram ellefu framboð en sex þeirra eru aðeins í einu eða tveimur kjördæmum. Vegna þess að hefðbundnu stjórnmálaflokkarnir bjóða fram í öllum kjördæmum landsins hefur útvarpsráð samþykkt að þessir flokkar skuli fá 30 mín. í sjónvarpi til flokkakynningar auk kappræðu, umræðu og fyrirspurnaþátta er skipta klukkustundum fram til kosninga. Hin sex nýju framboð, áttu upphaflega að fá fimm mínútur til flokkakynningar ef þeir byðu fram í einu kjördæmi, og ekkert meira í sjónvarpi. Því hefur síðan verið breytt í tíu mínútur , eftir harðorð mótmæli frá Kommúnistaflokknum.

Ákvörðun útvarpsráðs, er tvímælalaust valdníðsla gegn nýjum stjórnmálahreyfingum sem eru að vaxa fram í andstöðu við þá flokkaskipan er ríkjandi hefur verið. Það vekur athygli að fulltrúi Alþýðubandalagsins, beitir sér harðast gegn nýju stjórnmálaframboðunum og útilokun þeirra frá

framhald á síðu 2



## Samtryggingakerfi þingflokkanna gegn 8 stunda vinnudegi

Þingræðisbaráttan er spegilmynd þeirrar baráttu stéttanna sem á sér stað í þjóðfélaginu. Sé verkalýðshreyfingin þingræðislega sinnuð og sjálf lítt búin til faglegrar og pólitískrar baráttu, gefur það auðvaldinu og öðrum sem vilja hagnast á hinni erfiðu aðstöðu verkalýðsstéttarinnar byr undir vængi í sérplægni sinni og gróðafíkn. Allt tal um að alþýðufólk eigi að einblína og treysta á atkvæðaseðilinn í lífsbaráttu sinni, blekkir og villir af leið baráttu verkalýðsins fyrir sósíalisma.

Borgaraflokkarnir, Sjálfstæðisflokkurinn og Framsóknarflokkurinn, og borgaralegu flokkarnir, Alþýðubandalagið og Alþýðuflokkurinn, hafa nú undanfarið hagnýtt

framhald á síðu 7

## Stjórn Dagsbrúnar þverbrýtur lögin

### *Kæra send til miðstjórnar ASÍ*

Ekki þarf að spyrja að lýðræðisást alþýðubandalagskratanna í Dagsbrúnarstjórninni. Nú er liðinn hálfur fjórði mánuður síðan halda átti aðalfund Dagsbrúnar, en lögum samkvæmt skal hann haldinn árlega fyrir 15. febrúar. Allar tilraunir verkamanna í Dagsbrún sem vilja að lögin verði haldin og aðalfundur verði, hafa hingað til verið árangurslausar.

Mánudaginn 29. maí var forseta Alþýðusambandsins og miðstjórn þess, sent formlegt kærubréf vegna lagabrota Dagsbrúnarstjórnarinnar. Það bréf hefur ekki enn verið tekið fyrir, þegar þetta er skrifað, nú rétt áður en blaðið fór í prentun. Eru það getsakir margra Dagsbrúnarmanna að Alþýðubandalagsmeirihlutinn í miðstjórn ASÍ vilji svæfa málið fram yfir kosningar, því Eðvarð og Guðmundur, aðal lagabrjótarnir eru í framboði til þings.

Á aðalfundi Dagsbrúnar á lögum samkvæmt m.a. að lýsa kjöri félagsstjórnar og starfi hennar síðasta ár. En eins og verkamenn í Dagsbrún þekkja er núverandi félagsstjórn algjörlega ólögleg, hún hefur ekkert umboð Dagsbrúnarverkamanna. Í vetur dæmdi Eðvarð Sigurðsson formaður kjörnefndar Dagsbrúnar, framboð er beint var gegn stjórn hans ólöglegt á

framhald á síðu 6

## Lygar um Kambódíu afhjúpaðar

Kambódía hefur verið vinsælt fréttaefni undanfarin ár. Sú mynd sem máluð hefur verið upp fyrir almenningi er í mjög svo svörtum litum. Þar hafa hinir "sannleikselskandi" fjölmiðlar landsins lýst Kambódíu sem landi ógna og kúgunnar. Þessu til "sönnunar" segjast þeir hafa sæg af upplýsingum. En samt sem áður lýsa þessir sömu aðilar yfir "að eiginlega getur enginn vitað nákvæmlega hvað skeður í Kambódíu í dag, því Kambódía er lokað land".

framhald á síðu 4



## Alþingiskosningar

### Fulltrúa verkalýðsins á þing

Í alþingiskosningunum í júní býður Kommúnistaflokkurinn fram í fyrsta skipti. Framboð flokksins sker sig úr öðrum framboðum á ýmsan hátt. Markmið framboðsins er ekki hið sama og hjá þingflokkunum Framboð flokksins er liður í baráttunni fyrir myndun öflugrar samfylkingar hins vinnandi fjölda gegn heimsvaldastefnunni íslenska einokunarvaldinu og bandamönnum þess í verkalýðshreyfingunni. Af þessu markmiði helgast kosningagrundvöllur flokksins. Samfylking hins vinnandi fjölda er í sköpun, merki þess má sjá í auknu starfi Samtaka herstöðvaandstæðinga, aukinni samstöðu gegn kúgunaraðgerðum ríkisvaldsins og atvinnurekenda og vaxandi andstöðu innan verkalýðshreyfingarinnar gegn forystu ASÍ. Kommúnista-

framhald á síðu 6

LEIÐARI

# Keflavíkurgangan

Samtök herstöðvaandstæðinga hafa ákveðið að gangast fyrir Keflavíkurgöngu laugardaginn 10. júní n.k. Þessar aðgerðir grípa inn í mikla þjóðfélagsumræðu sem nú á sér stað vegna kosninga.

Þegar herinn kom hingað til lands var þjóðin ekki spurð álits og þegar inngangan í NATO var samþykkt á alþingi urðu öflug mótmæli, en þjóðinni gafst enginn kostur á að láta skoðanir sínar í ljós í kosningum. Það verður að teljast dæmigert fyrir lýðræðið í þessu þjóðfélagi, að ekki skuli hafa verið þjóðaratkvæði um jafn örlagaríka ákvörðun sem hersetu landsins og veru í hernaðarbandalagi. Það hlýtur því að vera krafa herstöðvaandstæðinga að þjóðaratkvæðagreiðsla fari fram um herinn og NATO. Ýmsir hafa haldið því fram, og þar á meðal Alþýðubandalagið, að í alþingiskosningum sé kosið um hermálið. Þetta er alrangt, því fylgi herstöðvaandstæðinga er mun meira en t.d. fylgi Alþýðubandalagsins. Ágreiningur herstöðvaandstæðinga um hin ýmsu þjóðmál er meiri en svo að þeir kjósi einhvern flokk vegna hermálsins eins. Því er það að meðan þjóðaratkvæðagreiðsla hefur ekki farið fram geta herstöðvaandstæðingar aðeins sýnt afstöðu sína til hersins og NATO með því að fjölmenna í aðgerðir og sýna þannig hug sinn. Því er það mjög mikilvægt að fjölmenna í næstu Keflavíkurgöngu.

Kommúnistaflokkurinn leggur áherslu á að efla Samtök herstöðvarandstæðinga og telur virka fjöldabaráttu vera einu leiðina til að ná fram brottför hersins og úrsögn Íslands úr NATO. Þá leggur Kommúnistaflokkurinn áherslu á að barátta herstöðvaandstæðinga tengist baráttu gegn allri heimsvaldastefnu og varar við þeirri stríðshættu sem heiminum stafar af vaxandi samkeppni risaveldanna tveggja, Sovétríkjanna og Bandaríkjanna. Stríðsundirbúningur risaveldanna magnast óðfluga og hvar sem annað þeirra missir fótfestu, reynir hitt að troða sér inn. Íslendingar verða því að snúast af hörku gegn ásókn beggja risaveldanna og verja sjálfræði þjóðarinnar.

Kommúnistaflokkurinn hefur dregið afstöðu sína saman í þrjú meginkjörorð:

Ísland úr NATO-herinn burt
Gegn allri heimsvaldastefnu
Verjum sjálfræði Íslands

Að þessum málum mun Kommúnistaflokkurinn starfa hvarvetna, utan þings sem innan.


THE STA[...]
NATION[...]
Ninth Year/No. 4
STATE OF I[...]
ISRAEL MOVING TO OFFENSIVE
Striking Successes Reported
(From Our Correspondent in Israel)
"Our


Ísraelskur hermaður merkir bústað Palestínumanns. Þessa sömu aðferð notuðu þýsku nasistarnir í ofsóknum sínum gegn gyðingum ( hina frægu gyðingastjörnu ) og nú beita síonistar henni gegn palestínsku þjóðinni.

# Sálrœnn hernaður í Palestínu 1948

framhald af baksíðu

ina niður og kynda undir vonleysi. Sögum um sjúkdóma og væntanlegt mótlæti var komið á kreik. Haganah-útvarpið þ. 14. mars: "Við munum svara drápi með drápi, eyðingu með eyðingu. Okkur þykir leitt að þurfa að grípa til þvingunaraðgerða sem munu koma niður á saklausu fólki, sem þannig mun borga fyrir afbrot annara en við höfum aðvarað ykkur". Og þann 27. mars: "... Það er heilög skylda að láta bólusetja yður og fjölskyldur yðar sem fyrst gegn kóleru og öðrum slíkum sjúkdómum, þar sem búist er við að þeir muni brjótast út meðal araba í borgunum í apríl og maí".

Staðbundnar árásir síonista og áróður höfðu þó ekki mikil áhrif á íbúana þar til í stóru árásinni í apríl.

Fram að þeim tíma hafði ekki einn einasti arabískur bær verið yfirgefinn. Aðeins um 30.000 palestínuarabar höfðu flúið hinn "gyðinglega" hluta Palestínu, aðallega yfirstéttarfólk og hin velstæða millistétt. Palestínumenn litu á þetta flóttafólk sem svikara.

## DEIR YASIN

Árás síonistanna byrjaði 1. apríl. Mestu hernaðaraðgerðir voru í Quastal 4. apríl, Deir Yashin 9. apríl, Lajjun 15. apríl, Saris 17. apríl, Tiberias 20. apríl, Haifa 22. apríl, Jerúsalem 25. apríl, Jaffa 26. apríl Akka 27. apríl, Jerúsalem 1. maí, Safad 7. maí, Bisan 9. maí

Fjöldamorðið í Deir Yasin notuðu síonistarnir í sálræna hernaðinum. Í útvarpsstöðvum og frá hátalarabílum hvatti Haganah arabana til að senda konur og börn burt, lofaði þeim griðum á flóttanum til arabískra yfirráðasvæða og gaf í skyn og hótaði þeim ýmsu sem neituðu að hlýða skipunum.

Hátalararnir hafa verið kallaðir svar nútímans við lúðrum Jeríkóborgar. Blanda af hræðilegum hljóðum grátandi barna og kvenna, sírenum, sprengingum og hvatningum á arabísku drundi úr hátölurum: "Bjargið lífi ykkar. Flýið. Gyðingar nota eiturgas og kjarnavopn. Hlaupið í nafni Allah."

## SÖGUSAGNIR:

Yigal Allon, yfirmaður í hernum árið 1948 og utanríkisráðherra í fyrri ríkisstjórn hefur sjálfur sagt frá, hvaða ráðum hann beitti til að hrekja arabíska íbúa Galíleu burt: "Ég safnaði saman gyðingaleiðtogum sem voru í sambandi við arabana í hinum ýmsu bæjum og bað þá að hvísla að ýmsum aröbum að mikið lið gyðinga væri komið til Galileu og ætti það að brenna alla bæi á svæðinu. Þeir áttu að leggja til við þessa menn, sem vinir að flýja meðan tími væri til. Og orðrómurinn breiddist út, að tími væri til kominn að flýja. Fjöldi manns flúði. Þessi aðferð heppnaðist fullkomlega. Þann 15. maí voru arabar í Jerúsalem hvattir til að flýja í hátölurum Haganah: "Takið konur ykkar og börn og flýið úr þessu blóðbaði... Flýið Jeríkóveginn, hann stendur enn opinn fyrir ykkur. Ef þið flýið ekki, bjóðið þið hættunni heim".

Fram að stofndegi Ísraelsríkis þ. 14. maí 1948 flúðu um 300.000 palestínuarabar. Eftir það tók brottrekstursstefna síonistanna á sig aðra mynd.

Árásirnar á bæina Al-Ludd og Ramle eru dæmi um það.

Árásinni á Al-Ludd var stjórnað af Moshe Dayan. Hópar síonista réðust inn í bæinn og skutu á hvað sem fyrir varð. "Lík arabískra karla og kvenna, já, jafnvel barna lágu á götunum í kjölfari þessarar miskunnarlausu árásar" sagði vitni eitt sem komst af.

Ramle féll daginn eftir. Allir arabískir karlar á vopnfærum aldri voru teknir höndum og lokaðir inni. Íbúarnir fengu að vita að þeir fengju hvorki mat né drykk og var skipað að yfirgefa bæinn innan 48 stunda

Milli 75.000 og 100.000 af íbúum beggja þessara borga flúðu til Jordaníu. Allar eigur þeirra, jafnvel reiðufé var tekið af þeim á flóttanum. Fólkið hafði hvorki vatn eða mat á þriggja daga langri göngu til hjálpar. Margir dóu úr þorsta. Vitni hafa sagt frá því að mæður neyddust til að skilja börn sín eftir við vegkantinn.

## FLÓTTAMENN Í EIGIN LANDI

Í allt voru 385 arabískir bæir eyddir í stríðinu og íbúar þeirra voru reknir á flótta til nágrannalandanna þar sem þeir settust að í flóttamannabúðum.

Brottreksturinn og hrakningarnar stöðvuðust ekki eftir stríðið með vopnahléinu. Ikrit Biram, Eman, Kafr, Jassif, Khassas, Katia og Jattneh eru nöfn arabískra bæja sem voru brenndir á næstu árum. Íbúar þeirra voru reknir á flótta yfir vopnahléslínuna eða þá að þeir neyddust til að lifa sem flóttamenn í hernumdu landi sínu.

## NEYÐARLÖG.

Ísrael er oft lýst sem vestrænu lýðræðisríki. En ekkert "vestrænt lýðræðisríki" nema þá Ísrael býr við stöðugt neyðarástand. Því var lýst yfir fjórum dögum eftir stofnun Ísraelsríkis og það ríkir enn í dag.

Oft hefur herinn mikil áhrif þegar neyðarástand ríkir. Sú hefur einnig orðið raunin í Ísrael en lögreglan hefur þó tekið yfir mörg verkefni hersins.

Með neyðarlögum er ríkisvaldinu gert kleyft að stjórna þegnunum á mjög áhrifamikinn hátt. Í Ísrael er lögunum fyrst og fremst beitt gegn palestínu aröbum. Ríkisvaldið má flytja stóra hópa til og frá í landinu og þannig rifið þá upp með rótum úr sinni heimabyggð og þannig valdið mikilli röskun á lífi þeirra

Persónufrelsi palestínumanna má einnig ráðast á eftir öðrum leiðum t.d. með húsleit og útgöngubanni. Eina ástæðan sem ríkisvaldið þarf að gefa upp er að "öryggi landsins krefjist þess". Af sömu ástæðu mega yfirvöld fangelsa menn án dóms og laga, taka upp og/eða eyðileggja eigur manna.

Með þessum neyðarlögum eru arabar í Ísrael rændir mannréttindum sínum og beiting laganna til þess er reglan en ekki undantekningin í "lýðræðisríkinu" Ísrael.

Athugasemd: Haganah, Irgun og Lehi voru allar hryðjuverkasveitir síonista.

Þýtt úr Palestinske front.

THE JEWISH STANDARD
NATIONAL JEWISH WEEKLY
CALL TO ARMS By A. ABRAHAMS (See page 3)
Ninth Year/No. 4 — Friday, May 21st, 1948—Iyyar 12, 5708. — Price 3d.
STATE OF ISRAEL IS PROCLAIMED
ISRAEL MOVING TO OFFENSIVE — Striking Successes Reported (From Our Correspondent in Israel)
"Our Call to Jewry to Rally to Our Side"
THE Jewish State, to be known as Israel, was proclaimed at 4 p.m. on Friday, May 14th, at a solemn session of the National Council at Tel Aviv. Mr. David Ben Gurion, who became Israel's first Prime Minister and Minister of Defence, read the declaration of independence. It begins:
TWO KINDS OF RECOGNITION — Britain Avoiding the Issue (From Our Diplomatic Correspondent)

Myndin sýnir forsíðu "The Jewis Standard" eins aðalmálgagns síonista þ. 21 maí 1948 þar sem sagt er frá stofnun Ísraels. Takið eftir kortinu af hinu fyrirheitnala Ísrael síonista, en það nær yfir Palestínu, Jórdaníu, hluta Sýrlands og S-Libanon

## ÚR BARÁTTUNNI

### Ósvífni íhaldsins

Laust eftir að íhaldið var að byrja að jafna sig eftir skellinn er það fékk í kosningunum gerðist ósvífinn lóðareigandi svo framkvæmdarsamur að gera tiraun til að eyðileggja leiksvæði barnanna í Grjótarþorpinu. Var ætlunin að nota tímann þangað til nýja borgarstjórnin tæki við til að gera bílastæði til að selja út og græða á því. Eftir að vélskófla hafði hafið framkvæmdir á umræddri lóð, hvisaðist framkvæmdin út á meðal íbúa Grjótarþorps. Var brugðist skjótt við, og frekari framkvæmdir stöðvaðar af krökkunum og þeim er eldri voru. Situr svo allt við það sem áður var.

HAFIÐ SAMBAND VIÐ KOMMÚNISTAFLOKK ÍSLANDS M-L

● Miðstjórn og ritstjórn Stéttabaráttunnar: sími 27810 og pósthólf 1357 121 R einnig í Rauðu Stjörnunni bókabúð, Lindargötu 15, opið mánud. - föstud. kl. 15:30 - 18:30.

● Hellisandur: Sigfus Almarsson Hellisbraut 10.

● Stykkishólmur: Gísli Hjaltason P. O. Box 63.

● Akureyri Jón Atli Játvarðsson Skarðshlíð 30.

● Neskaupsstaður: Messíana Tómasdóttir, Þiljuvöllum 38

● Hornafjörður: Skúli Waldorff, Bókabúð KASK.

● Suðurnes: Einar Jónsson Sólvallagötu 40c, Keflavík.

● Hafnarfjörður: Fjóla Rögnvaldsdóttir, Reykjavíkurvegi 24.

● Svíþjóð: Kristján L. Guðlaugsson, Kämnärsvägen 11N:220, 222 46 LUND. Hrólfur B. Ágústsson Uppstigen 139-31, 421 80 GÖTEBORG.

# Hvernig námsmenn styðja baráttu verkalýðsins

Stéttabaráttan hafði eftirfarandi viðtal við námsmennina Eggert Eggertsson, formann félags lyfjafræðinema í Háskólanum, Björgvin Leifsson, formann félags líffræðinema og Magnús Þorgrímsson sálfræðinema. Þeir Magnús og Björgvin skipa báðir framboðslista Kommúnistaflokksins til alþingiskosninganna 25. júní n.k. Þessir félagar taka allir virkan þátt í starfi flokksins og þá sérstaklega í starfinu við undirbúning kosninganna.



Eggert Eggertsson til vinsti, Björgvin Leifsson í miðið og Magnús Þorgrímsson.

Sp: Hver er meginstefna Kommúnistaflokksins í baráttu námsmanna?

MÞ: Stefna okkar er sú að öll menntun eigi að vera fyrir verkalýðinn og börn hans. Algjört grundvallaratriði er að fólki sé gert fjárhagslega kleyft að afla sér menntunar. Nám er eins og hver önnur vinna og til þess að geta stundað hana verður fólk að hafa lífvænleg laun. Menntuninni og menntakerfinu hefur alltaf verið stjórnað af ráðandi stéttum og er það hér á landi skipulagt út frá hagsmunum auðvaldsins. Þess vegna á verkafólk og börn þess í stöðugri baráttu við auðvaldið í baráttunni fyrir aukinni menntun. Þegar atvinnurekendur vantar vinnuafl með ákveðna menntun er auðveldara en annars að fá ríkisvaldið til þess að veita lán. En þegar hagsmunir verkafólks eru annars vegar eru hvergi til peningar. Það má líka búast við miklu atvinnuleysi menntafólks. Það er ekki vegna þess að það sé of mikið af menntafólki. Auðvaldinu finnst t.d. aldrei of mikið af lögfræðingum og viðskiptafræðingum en þar sem auðvaldið sér ekki neinn beinan hagnað eins og t.d. í félags- og heilbrigðismálum, má búast við mestu atvinnuleysi. Og eins má búast við að fólk sem stundar nám í þessum greinum eigi í vök að verjast.

Auðvaldsþjóðfélaginu er stjórnað þannig að verkafólk hefur vægast sagt takmarkaða möguleika á að afla sér menntunar. Námsfólk getur þess vegna aldrei treyst atvinnurekendum eða ríkisvaldi þeirra. Við eigum í stöðugri baráttu fyrir jafnrétti til náms.

Sp: Hvernig gengur ykkur að lifa af þeim styrkjum sem þið fáið til náms?

BL: Í fyrsta lagi verður að benda á að námsmenn fá ekki styrki, heldur vísitölubundin námslán sem þeim er gert að greiða að fullu að námi loknu. Stefna Kommúnistaflokksins er sú að námsmenn fái námslaun og liður í þeirri baráttu er baráttan fyrir betri námslánum, en í dag geta námsmenn úr alþýðustétt engan veginn framfleytt sér og sínum af þeim námslánum sem þeir fá. Í reglum Lánasjóðsins er t.d. ekkert tillit tekið til barnafólks en benda má á árangursríka baráttu námsmanna gegn þessu en við vorum að vinna mál gegn sjóðnum í þessu sambandi. Auk þess má benda á að svo virðist sem LÍN ætli sér að laga reglur Háskólans að sínum, t.d. geta lyfjafræðinemar ekki fengið lán á 1. námsári þar sem Háskólinn gerir ekki ráð fyrir að þeir ljúki nema sem svarar 10 námseiningum á haustönninni en hins vegar krefst LÍN að lokið sé a.m.k. 15 einingum á önninni til að fá lán á 1. ári. Þannig er gert það sem hægt er af hálfu auðvaldsins til þess að gera börnum úr verkalýðsstétt sem erfiðast fyrir en þetta kemur ekki við börn auðherranna sem geta leitað til þeirra um peninga þegar þeim sýnist. Þetta fólk þarf ekki að vinna á sumrin og fær þ.a.l. hærri námslán en fólki úr verkalýðsstétt sem verður að vinna í öllu sumarfríinu en refsað með lægri lánum. Þessu óréttlæti þarf að hnekkja og er það best gert með því að losna við fulltrúa auðvaldsins út úr LÍN, enda hafa námsmenn gert þá kröfu að Jón Sigurðsson og Co segi sig úr stjórninni, sérstaklega með tilliti til dómsins sem ég minntist á áðan.

Sp: Verkafólk segir gjarnan að námsmenn séu bara róttækir á meðan þeir eru í námi og búa við slæm kjör.



Hérna eru þeir félagar Magnús t.h. og Björgvin.

er mjög mikilvægt að tekið verði upp gagnrýnið nám í öllum deildum til að fólk viti hver tilgangurinn er með náminu og hvernig það er notað seinna meir. Gagnrýnið nám er náttúrulega tilgangslaust ef starf til uppbyggingar nýju skipulagi fylgir ekki með.

Ef við getum virkjað þá óánægju sem ríkir meðal námsmanna til skilnings á náminu og til eflingar sósíalismanum, þá verða menntaðir menn ekki bara róttækir meðan þeir eru í skóla heldur líka þegar þeir taka til starfa í þjóðfélaginu.



Magnús Þorgrímsson námsmaður er vinnur nú á Kleppsspítalanum, skipar fimmta sæti á framboðslista Kommúnistaflokksins til Alþingis

Hvað segið þið við þessu?

EE: Háskóli sem aðrir skólar í þessu þjóðfélagi eru byggðir upp til þess að þjóna skipulaginu. Að sjálfsögðu breyta menn um hugarfar þegar þeir komast í aðra aðstöðu í þjóðfélaginu. Því

Einn vinur minn hefur oft sagt þegar við höfum verið að ræða byltingarsinnaða pólitík að allur kommúnismi og róttækni byrji í maganum og má það til sanns vegar færa.

SP: Hvernig leggjast kosningarnar í ykkur og eruð þið bjartsýnir á að flokkurinn fái sterka stuðningsyfirlýsingu í þeim?

EE: Kosningarnar leggjast vel í mig. Fólk sem oft hefur verið á móti þessum svokölluðu smáflokkum er að sannfærast um að Kommúnistaflokkurinn er valkostur.

Kommúnistaflokkurinn er alltaf að styrkjast í baráttunni bæði pólitískt og faglega. Við skulum þó ekkert vera að búast við mjög mörgum atkvæðum til þess er fólk of íhaldssamt og áróður borgaranna og sterkur

Sp: Sumir róttækir námsmenn segja að ekki sé rétt að bjóða fram til þings, og hvetja fólk til að skila auðu þess í stað. Hvað hafið þið að segja um þessa afstöðu?

BL: Íslenskir kommúnistar verða að gera sér grein fyrir því að íslensk alþýða telur að borgaralega þingræðið sé valkostur; að hún geti fengið málum sínum framgengt á alþingi. Ég tel að fyrst og fremst þetta geri það að verkum að það er baráttufræðilega rangt að skora á fólk að skila auðu. Eða eins og vinur minn orðaði það þegar hann frétti um þessa afstöðu Eik (ml):

"Heldur þetta fólk að það sé statt í kommúnu í Kína eða hvað?" Og svo segir þetta fólk núna að það ætli að bjóða fram næst. Hvernig í ósköpunum getur það vitað að aðstaðan verði sú þá að framboð verði rétta baráttuaðferðin ef það er það ekki núna? Framboð Kommúnistaflokksins hefur hins vegar þríþættan tilgang: í fyrsta lagi myndi kommúnisti á þingi geta veitt hinni almennu verkalýðsbaráttu úti í þjóðfélaginu aðstoð, í öðru lagi geta kommúnistar á þingi afhjúpað eðli borgaralega þingræðisins og í þriðja lagi er framboðið einhver mælikvarði á fylgi flokksins í dag.

# Útvarpsráð vill útiloka Kommúnistaflokkinn úr fjölmiðlum

framhald af forsíðu

fjölmiðlunum. Það er sá sami Ólafur Ragnar Grímsson er sat í útvarpsráði fyrir Framsóknarflokkinn fyrir síðustu kosningar, var í Samtökunum og er nú kominn í Alþýðubandalagið. Þannig lítur hann sá ágæti maður á lýðræðið og stefnu Alþýðubandalagsins í þeim málum.

Kommúnistaflokkurinn hefur ákveðið að höfða mál gegn útvarpsráði, því greinilegt er að útvarpsráð fer ekki að útvarpslögum, og skal hér tekin stutt tilvitnun í þriðju grein útvarpslaganna frá 1971.:

2. málsgrein,

Útvarpsefni skal miða við fjölbreytni íslensks þjóðlífs, svo og við þarfir og óskir



Ólafur, óvinur lýðræðis.

minnihluta sem meirihluta. Veita skal alla þá þjónustu sem unnt er með tækjum útvarpsins, og almenningi má að gagni koma.

3. málsgrein,

Ríkisútvarpið skal í öllu starfi halda í heiðri lýðræðislegar grundvallarreglur.

Það skal virða tjáningafrelsi og gæta fyllstu óhlutdrægni gagnvart öllum flokkum og stefnum í opinberum málum stofnunum félögum og einstaklingum.

**xK xK xK xK xK xK xK**

# Lygar um Kambódíu



Kambódísk börn.

Framhald af forsíðu

Þessi tvö atriði eru reyndar þversögn, en nú frekar enn endranær virðist það ekki valda þessum einstöku fréttaskýrendum áhyggjum. En þessi þversögn er þó undarlegt megi teljast afleiðing af því hvernig þessar "fréttir" eru fengnar, - það er að í lok stríðsins þa var Kambódía lokað land að mestu, enda höfðu frelsisherirnir rekið af höndum sér tvö stærstu heimsvaldaríki jarðar, USA og USSR, og í þeim löndum er liggja að Kambódíu ráða þessir risar miklu. Þessa einangrun hafa bæði rússar og vesturveldin reynt að notfæra sér til að magna upp slúðursögur. En árangur þessarar herferðar var heldur rýr og tókst þeim t.d. ekki að slá ryki í augu alþýðu 3ja heimsins. Sem dæmi um þann ósigur heimsvaldasinnanna má nefna að á ráðstefnu hlutlausra ríkja í Shri lanka í ágúst 1976 var Kambódía viðurkennd sem fordæmi fyrir öll ófrjáls ríki. Á vesturlöndum hafa þessir aðilar getað beitt sér betur, enda hafa þeir þar stórkostlegt net fjölmiðla til að útbreiða það sem hentar þeim. En eins og venjulega þá geta slúðursögur ekki lengi glapið mönnum sýn, þessi höfuðáróðuraðferð borgarastéttarinnar getur aldrei dugað yfir langt tímabil. Því magnaðari sem slúðursögurnar verða, því skýrar koma þversagnirnar í ljós. Við skulum nú rekja nokkrar þeirra og skoða um leið bakgrunn þeirra.

## Stutt sögulegt yfirlit

Til að gera sér ljóst ástandið í Phnom Penh aprílmánuðinn 1975 skulum við rifja upp nokkuð af því sem á undan var gengið. Kambódía hafði tekist að halda sér að mestu leyti utan við stríðið í Indókína (nafn sem frakkar höfðu yfir Kambódíu, Laos og Vietnam, en þeir réðu yfir þessari nýlendu). En á landamærum Kambódíu og Vietnam voru að sjálfsögðu stöðug stríð og þar fóru í gegn mikið af þeim hjálparsendingum sem komu til syðsta hluta Vietnam. Sihanouk fursti, forseti Kambódíu, var heldur á engan hátt hliðhollur Bandaríkjunum og vildi á engan hátt styðja þá í stríði þeirra í Vietnam og Laos, þó þeir sóttu fast að fá aðstöðu í Kambódíu. En bandaríkjamenn höfðu stuðningsmenn innan Kambódíuhers og 1970 varð heimurinn vitni að enn einu valdaráninu sem stjórnað var af CIA, leyniþjónustu Bandaríkjanna. Þetta valdarán var sérlega blóðugt og muna lesendur eflaust eftir fréttamyndum sem felmtri slegnir ljósmyndarar vestrænna blaða tóku af fjölda líka sem flutu niður Mekongfljót, þar sem það rennur frá Phnom Penh til Vietnam. Það sem þá gerðist var að Lon Nol og hans herforingjastjórn þurfti á grundvelli að halda til valdaránsins meðal afturhaldsins í Kambódíu. Það reyndist honum nærtækast að blása að glóðum kynþáttahaturs.

Aðferðirnar eru gamalþekktar frá valdaránum fasista ( eins og t.d. Hitlers). Ákveðinn hópur fólks er valinn úr, sem er í minnihluta og hefur einhver sérkenni, t.d. litarfar, trúarbrögð, eða menningu, og þessum hóp kennt um allt sem miður fer svo sem verðbólgu, atvinnuleysi, sjúkdóma, styrjaldir o.s.frv. Fólk af vietnömskum ættum þóttu Lon Nol sérlega heppilegir til að nota í þessu skyni. Þeir voru flestir búsettir nálægt landamærum Vietnam og því einfalt að ákæra þá fyrir innrásir bandaríkjamanna og S-Vietnam inn í Kambódíu. En þessi ráðstöfun reyndist Lon Nol og CIA hjálparmönnum hans ekki sérlega happadrjúg, því alþýða Kambódíu lét ekki blekkjast. Þjóðfrelsishreyfingin sem þegar var orðin öflug í landinu 1970 efldist um allan helming, og á árunum 1970 til 1971 réðu þeir á milli 75-80 % af landinu.

Kommúnistaflokkur Kambódíu var greinilega frá upphafi frelsisstríðsins það afl er alþýða kambódíu treysti, því aðeins með órofa samstöðu hennar er mögulegt að skýra hinn skjóta sigur rauðu khmeranna gegn hinum voldugu óvinum. Í því sambandi er vert að hafa í huga að bæði Bandaríkin og rússar studdu Lon Nol ógnarstjórnina. Í kambódíu var beitt sömu baráttuaðferðum af hálfu heimsvaldasinnanna og í Vietnam, - fólki var smalað saman í borgirnar og þær víggirtar. Til að neyða fólk til borganna var haldið uppi látlausum loftárásum á landsbyggðina, sem varð fljótlega á valdi rauðu khmeranna. Stríðið sem stóð yfir í 5 ár kostaði 800 þúsund manns lífið. Það er athyglisvert að sjá hvað þeir sem gagnrýna ástandið í Kambódíu í dag segja um þetta. Við skulum láta hér nægja að vitna í Elínu Pálmadóttur blaðamann MOrgunblaðsins, í grein er hún skrifar í Morgunblaðið 3. sept. 1977. "Kambódía féll sem kunnugt er 17. apríl 1975, er skæruliðasveitir rauðu khmeranna héldu inn í Phnom Penh snemma morguns. Þar með lauk stjórnarferli Lon Nol, sem í 5 ár hafði barist og ríkt við spillingu og dugleysi". Þetta er lýsing á því að alþýða Kambódíu lagði harðstjóran Lon Nol að velli og ráku heri heimsvaldasinna af höndum sér. Varla hefur hinum almenna kambódíumanni fundist að Kambódía hafi "fallið" og óefað myndi hann hafa sterkari lýsingarorð til að lýsa ógnarstjórninni, en íhaldið á Íslandi er vant að skreyta "vinstri" stjórnir með, það er "duglaus og spillt". En þetta er harðasta gagnrýnin sem ég hef séð í Morgunblaðinu á Lon Nol.

## Phnom Penh flutningarnir

Í Phnom Penh 17. apríl 1975 var ástandið vægast sagt ömurlegt. Hinir grimmdarlegu þjóðflutningar Lon Nol ógnarstjórnarinnar höfðu borið ríkan árangur. Í upphafi stríðsins 1970 bjuggu í Phnom Penh 200 þúsund manns, en í apríl 1975 3,1 milljón. Þetta er mikill fjöldi fólks, ekki síst þegar haft er í huga að 1975 voru íbúar Kambódíu rúmlega 7 miljónir. Matvæli í borginni voru á þrotum og hungursneyð ríkti. Má í því sambandi vitna í US-aid, þá stofnun sem sá um matvælaflutninga til Pnom Penh , en undir það síðasta voru matvæli aðeins flutt til borgarinnar flugleiðis. Þeir upplýstu að síðustu dagana hafi 8000 menn dáið úr hungri. Núverandi stjórnvöld upplýsa að á fyrstu þremur dögunum eftir að þjóðfrelsishermenn náðu borginni á sitt vald, hafi 3000 manns dáið úr hungri. Úti á landsbyggðinni var ástandið ólíkt. Á undangengnum fimm árum hafði verið komið á fót landbúnaðarkommúnum á frelsuðum svæðum og voru þar næg matvæli og möguleikar til ræktunar ótakmarkaðir, en skortur á fólki. Eina ráðið var því að flytja fólk aftur á sínar heimaslóðir, því vegakerfið var svo gersamlega í rúst að ekki var unnt að flytja matvæli til borgarinnar. Þessir flutningar gengu vel fyrir sig, enda dreyfðist fólk niður á vel þróaðar landbúnaðarkommúnur í sinni heimabyggð. Það er athyglisvert að lesa hvað fréttaskýrandinn Árni Bergmann hefur um þetta að segja. Við skulum taka nokkrar tilvitnanir í Þjóðviljann 28. apríl '78:

**Hungur og bylting**

Meðal þeirra sem taka þennan pól i hæðina eru tveir bandariskir höfundar, Hildebrand og Porter, sem gáfu út 1976 bók sem þeir nefndu „Kambodia Starvation and Revolution" (Hungur og bylting). Þeir Hildebrand og Porter voru framarlega i hópi þeirra sem gagnrýndu striðsrekstur Bandarikjanna i Indókina og skrifuðu um þau mál greinargóða bók. William Shawcross, sem hér er stuðst við, segir og að besti kafli bókar þeirra fjalli um það hvernig hinn gifurlegi lofthernaður Bandarikjanna eyðilagði hefðbundinn landbúnað Kambódiu. I framhaldi af þvi taka höfundar svo alveg undir þær útskýringar Rauðra Khmera, að brottrekstur rúmlega tveggja miljóna manna frá höfuðborginni hafi verið i þágu fólksins; mat var aðeins að finna út i sveit, segja þeir

Shawcross bendir hinsvegar á ýmsar veilur i málsmeðferð þeirra félaga, og finnst undarlegt, að menn sem eru jafn þjálfaðir og þeir eru i þvi að sjá i gegn lygi og hálfsannleika rikisstjórna, skuli taka heimildir Rauðra Khmera jafn bókstaflega og gagnrýnislaust og þeir gera. Hann segir, að þeir geti ekki með skynsamlegu móti sýnt fram á að það hafi verið nauðsynlegt að reka alla borgarbúa á brott, svo til undantekningarlaust, án þess að geta séð þeim fyrir mat á leið til ákvörðunarstaðar. Hann bendir og á, að eitt helsta vitni þeirra félaga gegn fregnum af grimmd Rauðra Khmera, bandariski hagfræðingurinn W.J. Sampson, sé þeim i raun ekki sá stuðningur sem þeir vildu i fyrstu vera láta. Sampson, sem starfaði i Pnom Penh, og var gagnrýninn á Lon Nol og lofthernað Bandarikjanna, taldi á sinum tima, að hann hefði ekki orðið var við stórfelldar hreinsanir fyrst eftir að Rauðir Khmerar tóku höfuðborgina. En hann hefur og skýrt frá því, að hann trúi þvi ekki að brottflutningur einsog hann var framkvæmdur hafi verið nauðsynlegur vegna matvælaskortsins. **Og hann telur, að um 10 % þeirra sem reknir voru frá borginni 1975 hafi látist á göngunni upp i sveitir. Og það eru meira en 200 þúsundir manna.**

Úrklippa úr Þjóðviljanum

Í þessari tilvitnun kemur afstaða Árna Bergmanns fram í hnotskurn. Til skýringar skal þess getið að sá póll sem Árni minnist á í upphafi tilvitnunarinnar að Hildebrand og Porter taki, er sá að þeir álíta að nauðsynlegt hafi verið að flytja fólk út á landsbyggðina vegna hungursneyðarinnar. Ekki er að sjá að ÁB og William Shawcross séu svo greinargóðir ef taka skal mið af þessari tilvitnun, því það margar mótsetningar finnast í henni að mann rekur í rogastans. Skulum við líta aðeins nánar á þetta. WS telur að það stangist á að eftir þá gífurlegu eyðileggingu sem bandaríkjamenn ullu með lofthernaði sínum á vegum, stíflum og ökrum og þess að aðeins hafi verið um mögulega matarframleiðslu úti á landsbyggðinni. Ætti að vera nóg að spyrja einnar spurningar. Hvar halda WS og ÁB að möguleikar á matvælaöfluninni hafi verið? Líklega álíta þeir félagar að fólkið í Phnom Penh hefði getað lagt sér brunarústirnar í borginni til munns. Nei, m.a.s. ÁB ætti að geta tekið undir, að til þess að byggja upp landbúnaðinn þá þurfi mikið vinnuafl og það varð að gerast fljótt, svo engin mótsögn finnst í þessu, þvert á móti er það eðlileg afleiðing af eyðileggingunni að það þurfi mikið vinnuafl til að byggja landbúnaðarframleiðsluna upp aftur.



Fréttablöð og tímarit auðvaldslandanna hafa greitt meira en 20.000 dollara til að öðlast réttinn til birtingar á þessari mynd.

Hún er fölsuð. Myndin og fimm aðrar í sömu syrpu, hefur þann tilgang að sýna hermenn Byltingarhers Kambódíu taka bónda af lífi.

Miljónum eintaka myndarinnar hefur verið útbreitt af Washington Post auðhringnum, tímaritinu Time, þýska tímaritinu Stern og öðrum aðilum sem hafa sjúklega áráttu til að draga fram þá mynd af hinni nýfrjálsu Kambódíu, að þar ríki "blóðbað og hryllingur".

Fréttamaður Washington Posts sjálfs í Suðaustur Asíu, Louis Simons, viðurkennir að myndin sé fölsuð. Í viðtali við More tímaritið segir Simons: "Meðal diplomata er staðreyndin sú að myndin er sviðsett". Simons eignar það Thailensku ríkisstjórninni.

En þegar myndirnar hafa verið afhjúpaðar á Vesturlöndum, neita Thailensku fréttablöðin að viðurkenna það. Bangkok Post varð fyrst til að birta hina sviðsettu mynd fyrir nær ári síðan. Það sýnir að upplýsingaþjónustur risaveldanna eru hinir raunverulegu útbreiðendur rógsins. Nú þegar hið sanna er að koma fram hefur jafnvel Sygma fréttamyndaþjónustan - sem hefur eignarréttinn yfir myndunum - neitað að segja að þær væru ekta. Eliane Laffont hjá Sygma, viðurkennir að hún hafi fengið myndirnar í París, ekki í Thailandi, eins og upphaflega var haldið fram. Laffont segir: "Maðurinn sem kom til að hitta mig leit í raun út eins og flóttamaður. Hann var mjög aðlaðandi, hafði mörg vanda mál og þarfnaðist sárlega peninga". Laffont segir að hún hafi sagt Time tímaritinu að myndirnar "gætu verið" sviðsettar. Þrátt fyrir það birti Tme þær og Newsweek biðlar eftir þeim í dag. Eigingirni valdamanna að fá að prenta myndirnar - á sama tíma og þær neita að prenta efni frá kambódísku fréttastofunni - er annað dæmi um hina vel fjármögnuðu áróðursherferð gegn kambódísku byltingunni.

Fyrri grein

# afhjúpaðar

Ennfremur vitnar ÁB í WS þar sem hann heldur því fram að fólki hafi ekki verið séð fyrir mat á leið til ákvörðunarstaða. ÁB er reyndar svo ósvífinn að hann reynir að læða því inn hjá lesendum Þjóðviljans að Hildebrand og Porter haldi þessu fram (sjá úrklippu). Eina sannleikskornið sem felst í þessu er að menn lögðu almennt ekki hlaðnir matvælum frá Phnom Penh enda hefði þá ekki verið nausynlegt að yfirgefa borgina, en ÁB minnist ekki á að fólkið fékk bæði mat og húsaskjól á hinum mörgu landbúnaðarkommúnum sem urðu á leið þess. Rúsínan í pylsuendanum í þessari úrklippu er tilvitnun þeirra ÁB og WS í bandaríska hagfræðinginn W. J. Sampson. Hann sá engar aftökur er hann var í Phnom Penh, en hann telur að brottflutningar íbúanna hafi ekki verið nauðsynlegir vegna matarskortsins. Það er lán að hinir nýju stjórnendur Kambodíu notast ekki við bandaríska hagfræði (sjá að framan um ástandið í Phnom Penh 17. apríl 1975). Hvernig bandarískur hagfræðingur ímyndar sér að flutningum hafi reitt af, flutningar sem hann á engan hátt fylgdist með, getur ekki talist sönnun um það sem raunverulega gerðist. Enn athyglisverðara er að stærsti hlutinn af þeim vitnum sem beita sér gegn Kambódíu í dag, sáu aldrei neitt sjálfir en höfðu heyrt eða héldu að gerst hefði þetta eða hitt.

Þó skal taka fram að önnur atriði höfðu einnig áhrif á þessa flutninga. Árið 1975 var búið að vera ljóst í marga mánuði að Phnom Penh yrði frelsuð. Til að mæta þessum óumflýjanlegu örlögum sínum, hafði Lon Nol klíkan og CIA undirbúið nákvæmlega hvernig þeir gætu notfært sér ringulreiðina og hungursneyðina til að stofna til gagnbyltingar. Þetta átti að vera óbrigðult ráð til að fá alþýðuna í Phnom Penh til að grípa til vopna en það hafði þeim ekki tekist, þrátt fyrir að Bandaríkin og Sovétríkin létu stjórninni í té ómælda fjármuni í þeim tilgangi. Ekki höfðu heimsvaldasinnarnir fyrr sett vopnin í hendur þeirra Kambódíumanna er skráðir voru nauðugir í herinn, en hinir nýju hermenn struku yfir til frelsishersins eða einfaldlega stungu af. Frægt varð þegar upp komst að stærsti hluti hers Lon Nols reyndist aðeins vera til á pappírnum, þannig að hershöfðingjar og liðsforingjar gætu hirt málann. Þegar það fréttist að frelsisherinn hefði flutt alla íbúa Phnom Penh út á landsbyggðina varð heimsvaldasinnunum ljóst að áætlun þeirra hafði mistekist og þeir hreinlega trilltust. Mikið magn af sögum voru fundnar upp af CIA, en þær voru flestar afhjúpaðar samtímis. Afhjúpanirnar fengu þó ekki sömu skil í fréttum og lygarnar frá CIA fulltrúunum.

Framhald í næsta blaði

Sigurður Ingi Andrésson



1976, aðeins ári eftir að frelsisstríðinu lauk, hafði kambódíumönnum ekki aðeins tekist að sigrast á matarskortinum, heldur fluttu þeir einnig út 50.000 tonn af hrísgrjónum. Þetta er stórkostlegur árangur þegar haft er í huga þá miklu eyðileggingu er bandaríski flugherinn olli með sprengjárásum sínum.



Hinir hugprúðu frelsarar Kambódíu, Rauðu Khmerarnir

# íhaldið fékk skell

Sjálfstæðisflokkurinn galt sitt mesta afhroð í undangengnum bæjar- og sveitastjórnarkosningum. Í Reykjavík varð hrun hans þó mest og þar tapaði hann 2 fulltrúum og missti um leið þann meirihluta í borgarstjórn, sem hann hefur haft frá stofnun. Á undan Sjálfstæðisflokknum fóru fyrirrennarar hans Borgaraflokkurinn og Íhaldsflokkurinn með völd, svo íhaldið er greinilega orðið rótgróið í embættiskerfi borgarinnar. Margir voru farnir að líta á meirihluta íhaldsins í Reykjavík sem jafn óhagganlegan og óumbreytanlegan hlut og Esjuna. Fall íhaldsins sýnir þessu fólki fram á að breytingar eru vissulega mögulegar og þegar þetta fólk sér að jafnvel rótgrónustu stjórn er hægt að velta úr sessi, er ekki að vita hvar breytinga verður leitað næst.

Niðurstaðan í öllum kjördæmum varð hin sama: Sjálfstæðisflokkurinn og meðreiðarflokkur hans í ríkisstjórn, Framsóknarflokkurinn töpuðu svo til alls staðar, en stjórnarandstöðuflokkarnir unnu á. Breytingar á fylgi flokkanna urðu óvenju miklar og bendir það til þess að fólk kjósi ekki jafn mikið "af gömlum vana". Greinilegt er að fyrrum kjósendur Framsóknar hafa nú kosið Alþýðubandalagið og fyrrum kjósendur Sjálfstæðisflokksins hafa kosið Alþýðuflokkinn. Í Reykjavík hefur Alþýðubandalagið þó greinilega tekið mikið fylgi frá Sjálfstæðisflokknum einnig.

Skýringar stjórnmálaflokkanna og fjölmiðla eru margar hinar kostulegustu. Þeir sem töpuðu halda því fram að stuðningsmenn þeirra voru svo vissir um sigur að þeir nenntu bara ekki að kjósa þá, eða teldu alveg óhætt að kjósa aðra. Alþýðubandalagið telur velgengni sína stafa af að það hafi staðið sig svo vel í verkalýðsbaráttunni. Og enn aðrir telja að allt sé þetta Guðrúnu Helgadóttur að þakka, eða kenna. En breytingarnar eru svo miklar og úrslitin svo ótvíræð að hvorki verður þar kennt um einni manneskju eða áhugaleysi kjósenda. Greinilegt er að skefjalausar kjaraskerðingar og árásir á réttindi alþýðunnar hafa orðið til þess að fólk kaus nú minna ríkisstjórnarflokkana. Þá ~~var~~ ekki um annað að ræða en sitja heima eða kjósa einhvern annan flokk.

Við alþingiskosningarnar verður staðan nokkuð önnur, sérstaklega fyrir Alþýðubandalagið. Samtök frjálslyndra og vinstrimanna munu þá bjóða fram í öllum kjördæmum og má búast við að taki eitthvert fylgi frá Framsóknarflokknum og Alþýðuflokknum og hægra megin frá Alþýðubandalaginu Einnig munu bæði Kommúnistaflokkurinn og Fylkingin bjóða fram í Reykjavík og eru líkur á að fjöldi þeirra sem nú kusu Alþýðubandalagið munu kjósa Kommúnistaflokkinn næst. Listi Alþýðubandalagsins til borgarstjórnarkosninga var þokkalega samansettur og átt að finna fólk, sem hafði getið sér vinsælda fyrir störf sín að félagsmálum. Í alþingiskosningum gildir öðru máli. Þar eru í 2. og 5. sæti þeir Eðvarð Sig. og Guðmundur J. sem njóta lítilla vinsælla eftir margendurtekin svik við verkalýðinn, undanslátt gagnvart auðvaldinu, brot á lögum félags síns, ólýðræðislega stjórnarhætti og nú nýlega hafa þeir rennt sér á rassinum í alls kyns inn- og útflutningsbönnum. 4. sæti G-listans skipar svo Ólafur Ragnar Grímsson, framagosi sem ferðast hefur á milli flokka og selt sig hæstbjóðanda og sem gengið hefur manna harðast í því að skerða lýðræðið innan útvarpsins. Ekki hafa þau Svavar og Svava heldur unnið sér traust verkalýðsins.

Ekki verður Sjálfstæðisflokkurinn óverðugri fyrir næstu kosningar. Síðast var þar hver höndin upp á móti annarri og nú eru þar allir komnir í hár saman því einhvern þarf að hengja fyrir tapið.



Myndin er af fundarsal borgarstjórnar í Skúlatúni 2. Nú fær fyrrverandi minnihluti tækifæri til að efna kosningaloforðin sín. Fróðlegt verður fyrir almenning að fylgjast með því.

# Fulltrúa verkalýðsins á þing

Framhald af forsíðu.

flokkurinn býður fram til Alþingis til þess að styrkja þessa hreyfingu og afla henni talsmanna í þingsölunum.

NAUÐSYNLEGT AÐ BRJÓTA EINOKUN ÞINGSALAFLOKKANNA.

Í marga áratugi hafa þingflokkarnir 4 verið opinberir fulltrúar þjóðarinnar á Alþingi Setu sína á þingi hafa þessir flokkar óspart notað til að tryggja völd sín í ríkisbákninu og gagnkvæma hagsmuni sína gegn hugsanlegum talsmönnum íslenskrar alþýðu á þingi. Þessi einokun þingflokkanna nær ekki aðeins til þingsalanna og þingnefnda, hún þrífst í bönkum, ráðuneytum, ríkisfjölmiðlum og allflestum ríkisstofnunum. Að sjálfsögðu segjast þingflokkarnir allir vera talsmenn þjóðarinnar, en það sem veldur innbyrðis baráttu þeirra, er ekki barátta andstæðra stétta þjóðfélagsins fyrst og fremst, heldur mismunandi hagsmunahópa innan borgarastéttarinnar og mismunandi áhersla á stéttir þjóðfélagsins í kosningaáróðrinum. Sjálfstæðisflokkurinn er frá fornu fari fulltrúi einokunarauðvaldsins, framvörður stærstu atvinnurekendanna og stefna hans er afturhaldssöm í flestu. Hið sama má segja um Framsókn, styrk sinn sækir hún til SÍS-auðvaldsins, jafnframt því sem áróðrinum er beint fyrst og fremst til bænda. Alþýðuflokkurinn sem áður sótti styrk sinn til verkalýðshreyfingarinnar, hefur nú fyrirgert öllu trausti sínu innan hennar og hinir nýju leiðtogar flokksins reyna að grípa til óþvegins lýðskrums til að rétta sökkvandi skútu flokksins við. Loks Alþýðubandalagið, sem sækir styrk sinn annars vegar til aðstöðu sinnar innan verkalýðshreyfingarinnar og hins vegar til menntamanna, hefur yfirgefið málstað sósíalismans, en reynir eigi að síður að afla sér atkvæða í nafni sósíalismans. Allir þjóna þessir flokkar einokunarauðvaldinu hver á sinn máta.

ÍSLAND ÚR NATO-herinn burt

Gegn borgaralegri stefnu þessara flokka, setur Kommúnistaflokkurinn baráttugrundvöll sinn í komandi kosningum. Kommúnistaflokkurinn snýst harðlega gegn veru Íslands í NATO og erlendum her á Íslandi. Hann berst gegn hvers konar ásælni og yfirgangi hvort heldur er frá Bandarískri eða Sovéskri heimsvaldastefnu. Hann fordæmir stuðning þingflokkanna við erlenda hagsmuni og þjónkun þeirra við hagsmuni risaveldanna í austri og vestri. Baráttumál Kommúnistaflokksins er fyrst og fremst að standa vörð um sjálfsákvörðunarrétt íslensku þjóðarinnar. Við erum lítið land og fámenn þjóð, en við höfum jafnan rétt og stærri þjóðir á alþjóðavettvangi. Ísland verður að velja sér samstöðu með óháðum löndum og ríkjum þriðja heimsins á vettvangi heimsmálanna. Það verður að taka sjálfstæða afstöðu gegn hvers kyns heimsvaldastefnu og yfirgangi. Aðalmarkmið Kommúnistaflokksins í erlendum málefnum er baráttan fyrir úrsögn úr NATO og brottrekstri herliðsins frá Miðnesheiði. En flokkurinn snýst jafnframt gegn aukinni styrjaldarhættu sem stafar frá Sovétríkjunum og útþenslustefnu þeirra á N-Atlantshafssvæðinu. Samtökum herstöðvaandstæðinga bætist öflugur talsmaður á þingi, ef kommúnisti nær kosningu í komandi þingkosningum. Talsmaður sem fyrst og fremst gengur erinda fjöldans og miðar starf sitt við að styðja fjöldabaráttuna.

GEGN ÁRÁSUM Á LÝÐRÉTTINDIN:

Kommúnistaflokkurinn setur sér það markmið að heyja ósleitilega baráttu gegn skerðingum á lýðréttindum fjöldans. Hann fordæmir ólög ríkisstjórnarinnar frá í febrúar og bráðabirgðalögin gegn sjómönnum og árásir á málfrelsið. Það er mikilvægt verkefni í fjöldabaráttunni, að standa vörð um lýðréttindin og ekki síður mikilvægt að þessi barátta fái stuðning frá sölum Alþingis. Annað af helstu verkefnum Kommúnistaflokksins í þessum málum, er baráttan fyrir framkvæmd laganna um jafnrétti kynjanna. Konur búa ekki við sömu lýðréttindi og karlar og vaxandi barátta meðal kvenna fyrir jafnrétti, hefur styrkt samfylkingu hins vinnandi fjölda fyrir frelsi, jafnrétti og sósíalisma að mun. Jafnréttisbaráttan þarf fleiri talsmenn og skeleggari á þingi, til þess að styðja baráttu kvenna fyrir málstað sínum. Baráttan fyrir lýðréttindum yrði eitt höfuðmál kommúnísks þingfulltrúa.

GERUM VERKALÝÐSFÉLÖGIN AÐ BARÁTTUTÆKJUM.

Kommúnistaflokkurinn hefur barist skelegglega fyrir áhrifum hins almenna félagsmanns verkalýðshreyfingarinnar í stjórnun hennar og starfi. Einn flokka hefur hann sett kröfuna um lífvænleg laun fyrir 40 stunda vinnuviku á oddinn og framfylgt henni með öflugu starfi. Andstæðingar þessarar baráttu koma fyrst og fremst úr röðum Alþýðubandalagsins. Það er þaðan sem söngurinn um"ábyrga afstöðu til atvinnuveganna" bergmálar. Það er þaðan sem andstaðan við breytingu verkalýðsfélaganna í raunveruleg baráttutæki kemur. Kommúnistaflokkurinn vill skapa öfluga samfylkingu verkafólks, án tillits til stjórnmálaskoðana, samfylkingu sem setur það eitt á oddinn að standa vörð um lífskjör og hagsmuni hins vinnandi fjölda. Kommúnistaflokkurinn styður þá baráttu sem á sér stað innan verkalýðshreyfingarinnar alhuga, hann skráir á gunnfána sína kröfuna um samfylkingu verkalýðsstéttarinnar gegn atvinnurekendum og ríkisvaldi þess. Verkalýðurinn á enga talsmenn á þingi. Og þótt Eðvarð Sigurðsson sé formaður Dagsbrúnar hafa þingstörf hans einkennst af allt öðru en baráttu fyrir eflingu og aukinni baráttuhæfni verkalýðshreyfingarinnar. Verkalýðshreyfingin þarf að eiga annars konar talsmenn á þingi, talsmenn sem koma úr röðum hennar sjálfrar, talsmenn sem búa við lífskjör fjöldans og þekkja baráttu hans og taka þátt í henni. Kommúnistaflokkurinn býður fram til Alþingis í þeim tilgangi að verkalýðsstéttin eignist slíkan talsmann. Það er skylda sérhvers þingfulltrúa kommúnísks flokks, að gæta einungis hagsmuna verkalýðsfjöldans og hinnar vinnandi alþýðu, að styðja í einu og öllu baráttu fjöldans og lifa sjálfur áfram á kjörum fjöldans og taka náinn þátt í baráttu hans. Verkalýðsstéttin þarf að eignast slíkan talsmann á þingi. Þess vegna er nauðsynlegt að afla Kommúnistaflokknum víðtæks fylgis í kosningunum í júní n.k.

KJÓSIÐ KOMMÚNISTAFLOKKINN-KJÓSIÐ BARÁTTUNA:

Þau atkvæði sem falla á lista Kommúnistaflokksins, eru ekki greidd einstaklingum sem lúta skyldum við hagsmuni atvinnurekenda eða borgaralegs flokksvalds. Þau eru greidd vinnandi mönnum, sem eru í framboði til þess eins, að stuðla að vexti og viðgangi fjöldabaráttunnar og að opna fjöldanum augsýn inn í þá atburði sem fara fram á Alþingi Íslendinga. Kommúnískur þingmaður skal vera talsmaður verkalýðsstéttarinnar, baráttumaður innan veggja hinna borgaralegu þingsala sem styður byltingarbaráttu verkalýðsfjöldans með orðum sínum og athöfnum. Hann skal bera fullar skyldur við fjöldann og hlýða á gagnrýni hans og ráðleggingar og færa fram málsvörn verkalýðsins á pöllum Alþingis.

Verkafólk. Baráttusinnar. Kjósið Kommúnistaflokkinn, þá kjósið þið leið baráttunnar. Kommúnistaflokkurinn er eini framboðsaðilinn sem byggir grundvöll sinn á stéttabaráttunni, eini aðilinn sem þjónar hagsmunum verkalýðs og vinnandi alþýðu. Látið ekki þar við sitja, aðstoðið okkur við framboðið og eflið baráttuna fyrir talsmanni fjöldans á þingi.




Kommúnistaflokkurinn mun með þátttöku sinni í þingræðisbaráttunni, leggja áherslu á baráttuna gegn auðhringjunum, íslenskum og erlendum, og verja hagsmuni verkalýðsins gagnvart þeim.

# Jafnréttismál

frh. af baksíðu

6 mánaða fæðingarorlofi, 3 mánuði fyrir hvort foreldri Í dag eru mæðralaun 3000 kr. og meðlag 19.000 kr. sem er svívirðilega lágt og dugar engan veginn til framfærslu.

Til þess að konur geti tekið þátt í atvinnulífinu sem skyldi verður að tryggja örugga dagvistun barna. Dagvistun á ekki bara að vera eitthvað neyðarúrræði foreldra heldur er dagvistun sjálfsögð réttindi allra barna. En dagvistunarheimili verða líka að vera sómasamleg ef þau eiga að þjóna hlutverki sínu í uppeldi og þroskun barna. Aðbúnaður þarf að vera betri en nú er og starfsfólk fleira. Einnig verður að útrýma deildaskiptingunni því þroska barnsins er betur borgið ef það umgengst börn á öðrum aldri en það sjálft er.

Eldri konur eiga oft erfitt með að fá vinnu. Oft hafa þær ekki unnið í mörg ár, vegna þess að þær hafa verið að sinna börnunum, og svo þegar þær ætla út a vinnumarkaðinn aftur rekast þær á stóran vegg. Sakir aldurs þeirra og oft menntunarleysis fá þær störf sem engan veginn á við þær eða þá að þær fá enga vinnu. Atvinnumálum eldri kvenna verður því að koma í lag.

Konum er mismunað í vali menntunar. Ríkjandi eru viðhorf um það hvað teljist við hæfi kvenna að læra og hvað ekki, en þó hafa þessi viðhorf farið halloka undanfarin ár. Yfirleitt er það þannig að ef um hjón er að ræða, þá vinnur konan fyrir manni sínum svo hann geti lært. Sama er að segja um ef hjón eru í námi og eignast barn þá verður konan að hætta námi því veitendur námslána taka ekkert tillit til barnafjölskylda.

Flest meginbaráttumál verkafólks svo sem styttri vinnutími og bætt kjör eru einnig brýn hagsmunamál flestra kvenna. Og þau baráttumál sem oft hafa verið sérstaklega eignuð konum eru þegar betur er að gáð hagsmunamál okkar allra. Til þess að þessi mál nái fram að ganga verða konur að hefja baráttuna og leggja hart að sér.

Á alþingi næst ekkert í gegn nema fyrir þrýsting utan frá. Sá þrýstingur þarf að vera mun meiri frá alþýðu til að mark sé tekið á því, vegna þess að alþingi er í höndum auðvaldsins og þjónar hagsmunum þess. Jafnréttissinnar og allar alþýðukonur verða að eignast málsvara á alþingi.

Málsvara sem eru tilbúnir að þjóna fólkinu og bera hag þess fyrir brjósti. Málsvara sem berjast af hörku gegn öllum árásum á rétt þess og eru óþreytandi að reyna að bæta hag þess eins og kostur er. Þessa málsvara býður Kommúnistaflokkurinn fram.

x K





## DAGSBRÚN

STJÓRN DAGSBRÚNAR ÞVERBRÝTUR LÖGIN

Kæra send til ASÍ

Framhald af forsíðu.

mjög svo vafasömum forsendum. Sá úrskurður Eðvarðs var kærður til miðstjórnar ASÍ af þeim verkamönnum er stóðu að mótframboðinu. Þeirri kæru hefur miðstjórn ASÍ enn ekki svarað, meira en fjórum mánuðum eftir að hún var lögð fram á skrifstofu Alþýðusambandsins.

Slík vinnubrögð eru ekkert annað en gróf óvirðing verkalýðsforystunnar við þá 200 verkamenn er stóðu að mótframboðinu í janúar í vetur, sem Dagsbrúnarforystan óttast svo að aðalfundur hefur enn ekki séð dagsins ljós.

# Um úrslit kosninganna

**Dufþakur**

Mjög miklar breytingar hafa orðið á fylgi flokkanna við úrslit bæja- og sveitastjórnakosninganna. Fylgi stjórnarflokkanna minnkaði um 14% miðað við bæja- og sveitastjórnakosningarnar 1974 og fylgi stjórnarandstöðuflokkanna jókst að sama skapi. Á því er enginn vafi, að hér var fyrst og fremst verið að kjósa um landsmálin; úrslitin má því túlka sem mótmæli vinnandi fólks við kjaraskerðingarárásum ríkisvaldsins. Þessi úrslit gefa því nokkuð glögga vísbendingu um það sem koma skal, nefnilega niðurstöður alþingiskosninganna 25. júní n.k. Því velta eflaust margir því fyrir sér þessa dagana, hvort búast megi við nýrri "vinstri" stjórn næsta kjörtímabil.

Þeir voru margir, sem bjuggust reyndar við því, að stjórnarflokkarnir töpuðu einhverju fylgi og stjórnarandstöðuflokkarnir ynnu á, en varla að munurinn yrði svo mikill sem raun varð á. Fylgisaukning Alþýðubandalagsins kemur líklega hvað mest á óvart. Menn áttu von á því, að Alþýðuflokkurinn bætti við sig talsverðu atkvæðamagni, en útkoman varð eigi að síður sú, að það var Alþýðubandalagið, sem jók fylgi sitt mest eða um tæp 8%. Lætur því nærri, að fjórði hver kjósandi hafi látið sitt atkvæði í hendur þessa flokks.

Hvaða niðurstöður má svo draga af þessu? Alþýðubandalagið setti kjaramálin á oddinn í þessum kosningum og því má ætla, að alþýða landsins treysti þessum flokki hvað best til að vinna að framgangi sinna hagsmunamála. Fram hjá þeirri staðreynd verður ekki gengið.

Það sem vekur hvað mesta athygli í þessum kosningum er fall meirihluta borgarstjórnaríhaldsins í Reykjavík, sem stjórnað hefur málefnum borgarinnar samfellt í u.þ.b. 70 ár. Segja má, að Alþýðubandalagið sé nú komið í lykilstöðu innan borgarstjórnarinnar með sína fimm fulltrúa. Þetta veltur þó á samstarfi Bandalagsins, Framsóknar og Alþýðuflokks, en allt útlit er fyrir, að fulltrúar þessara flokka skipi meirihluta borgarstjórnar næsta kjörtímabil. Það verður gaman að fylgjast með því, hvernig þeim tekst að standa við loforð sín.

Fimmti maður G-listans, sem óvænt náði kjöri sem borgarfulltrúi, er Guðmundur Þ. Jónsson, nýkjörinn formaður Landssambands iðnverkafólks. Í viðtali er Þjóðviljinn átti við hann, eftir að úrslit voru kunn, hafði hann þetta að segja:

"Í kosningabaráttunni lagði ég áherslu á að ég lít á mig sem fulltrúa verkafólks og það mun ég gera sem borgarfulltrúi, ekki síður en sem frambjóðandi. Í Reykjavík er orðið brýnt að vinna að lausn mikilla hagsmunamála verkafólks, atvinnumálum og húsnæðismálum og á þeim vettvangi mun ég fyrst og fremst starfa."

Kjara- og atvinnumál og húsnæðismál eru alltaf meðal brýnustu hagsmunamála verkafólks. Því er rétt að fylgjast sérstaklega með störfum þessa fulltrúa verkalýðsstéttarinnar í borgarstjórn. Hvort honum tekst þar betur til en Eðvarði Sigurðssyni á alþingi skal ósagt látið, enda verða menn aðeins dæmdir af verkum sínum en ekki fögrum fyrirheitum. Vandamálin eru margvísleg og þau krefjast róttækrar úrlausnar. Þeir sem veittu Alþýðubandalaginu brautargengi í þessum kosningum eiga heimtingu á raunhæfum úrbótum í málefnum borgarinnar.



Við skulum vona að íhaldskórinn hafi nú hljóðnað að eilífu.

# Samtryggingakerfi þingflokkanna gegn 8 stunda vinnudegi

Framhald af forsíðu.

sér hina ósjálfstæðu og máttvana baráttuaðstöðu verkalýðsstéttarinnar og staðið saman um að brjóta á bak aftur viðleitni verkalýðsins til að sameinast til stéttabaráttunnar á grundvelli fjöldabaráttu. Sjálfstæðisflokknum og Framsóknarflokknum, flokkum auðugustu atvinnurekendanna, er ekkert kærara en að verkalýðurinn standi sundraður og að meðal hans náist ekki baráttueining.

Alþýðubandalagið og Alþýðuflokkurinn, flokkar yfirlýstra sósíalista, verkalýðsaðals og viðlíka metorðastritara, sjá um að fótum troða lýðræðið innan verkalýðshreyfingarinnar, telja baráttukjarkinn úr verkafólki, falsa fyrir verkalýðnum fræðikenningu hans og berjast gegn baráttusinnum sem upp koma meðal verkalýðsins. Þannig eiga borgaraflokkarnir og borgaralegu flokkarnir sameiginlegra hagsmuna að gæta hvað varðar að halda verkalýðnum sundruðum. Forystuklíkur þessara flokka og málpípur þeirra hafa hreiðrað um sig í öllum áhrifamestu embættum þjóðfélagsins og ætla sér ekki að láta af hendi svo mikið sem spón úr aski sínum, hvað svo sem varðar hagsmuni verkafólks. Þó svo hatrömm barátta ríki milli forystuklíkanna innbyrðis, um auð, völd og metorð, standa þeir sem einn maður gegn samstöðu verkalýðsins og einingu hans á stéttargrundvelli. Er það í daglegu tali nefnt samtryggingarkerfi þingflokkanna.

## Ólög og bráðabirgðalög.

Sú viðurstyggilega árás sem atvinnurekendur og ríkisvald þeirra gerðu á lýðréttindi og kjör alþýðunnar, með setningu kjararánslaganna, kallaði á öflugar og markvissar gagnaðgerðir af hendi verkalýðshreyfingarinnar. En raunin hefur orðið önnur. Komið hefur í ljós að uppkeypta verkalýðsforystan ætlar sér ekki að hrinda kjararánslögunum og allir tilburðir hennar í þá áttina hafa aðeins verið glepjandi sýndarmennska.

Aftur á móti hafa falssósíalistarnir verið iðnir við að telja fólki trú um að allt byggist á atkvæðaseðlinum, x við réttan flokk og að kjarabaráttan fari fram í kjörklefanum.

Ríkisvaldið hefur nú dregið nánasarlega í land, frá setningu kjararánslaganna og með setningu bráðabirgðalaga. Kjararánslögin frá í febrúar hafa nú þegar skert verkamannakaup um 15-25 þús. kr. og þau voru gróft brot á þeim lýðréttindum sem frjáls samningsréttur er. Bráðabirgðalögin sem ríkisvaldið setur nú og nefnir í hæversku sinni "fulla vísitölu á 122 þús. kr. daglaun" eru sett á fyrst og fremst til atkvæðasmölunar. Þau bæta verkafólki ekki upp þá kaupskerðingu sem það hefur átt við að búa frá setningu kjararánslaganna, þau gilda aðeins fyrir dagvinnutekjur en ekki eftir-, nætur- eða bónusvinnu og þau eru auk þess miðuð við hina meingölluðu vísitölu sem viðgengst í samningum ASÍ og VSÍ.

Lúðvík Jósepsson formaður Alþýðubandalagsins var snöggur að hagnýta sér og sínum það að bráðabirgðalögin voru sett. Hann lýsir því að "ríkisstjórnin þoli ekki aðgerðir verkalýðshreyfingarinnar". Er sú röksemdarfærsla í hæsta máta undarleg því aðgerðir verkalýðshreyfingarinnar, sem er algerlega miðstýrt af uppkeyptu verkalýðsforkólfunum, hafa einkennst af undanslætti við auðvaldið og undanþágum. Þannig reynir Lúðvík að eigna það Alþýðubandalagskrötunum í forystu verkalýðshreyfingarinnar þegar íhaldið telur það vera stjórnlistarlega rétt að gefa örlítið eftir í kjarabaráttunni.




Verkalýðsforystan lagði höfuðáherslu á atkvæðasmölun, 1. maí.

Guðmundur J. Guðmundsson varaformaður Dagsbrúnar "réttlætti" undanþágur frá olíuinnflutningsbanninu, til handa olíufélögunum, sem verkalýðsforystumenn Dagsbrúnar gáfu, með því að "baráttan stæði ekki gegn hinum almenna manni". Röksemdarfærsla af þessu tagi gæti allt eins táknað að Guðmundur væri almennt á móti vinnustöðvunum sem baráttuaðferð verkalýðsins. Því óhjákvæmilega hlýtur það að koma niður á alþýðu landsins, á einn eða annan hátt, að þurfa yfir höfuð að standa í baráttu gegn auðvaldinu.

Ef menn ætla sér í raun að berjast fyrir betra þjóðfélagi verða þeir að leggja hart að sér. Það er einföld staðreynd og liggur ljóst fyrir. Og hvers vegna var þá Guðmundur að standa fyrir því að sett væri á innflutningsbann á olíu ef sú barátta er "barátta gegn hinum almenna manni"?

## Fjöldabaráttu gegn auðvaldinu.

Hvort sem er í starfi sínu innan verkalýðsfélaga, annarra fjöldahreyfinga, á vinnustöðum eða í þingræðisbaráttu, leggur Kommúnistaflokkur Íslands áherslu á að virkilegur árangur næst aldrei í baráttu verkalýðsstéttarinnar, nema hún sjálf sé skipulögð á grundvelli fjöldastyrks síns gegn auðvaldinu, atvinnurekendum og ríkisvaldi þeirra.

Verkalýðsstéttin verður að eiga sína pólitísku forystu, flokk sem hefur enga aðra hagsmuni en hagsmuni stéttarinnar. Sá flokkur verður að vera skipaður fólki sem er vel að sér um ástand þjóðfélagsmálanna og heimsmálanna út frá fræðikenningum marxismans-lenínismans og er reiðubúið til að leggja allt af mörkum fyrir baráttu verkalýðsins. Kommúnistaflokkurinn er ungur að árum en allt sitt tilveruskeið hefur hann háð baráttu gegn auðvaldinu, falssósíalistunum og samtryggingarkerfi þingflokkanna. Hann hefur barist fyrir því innan verkalýðshreyfingarinnar að hún láti af samvinnustefnu sinni við atvinnurekendur og ríkisvald þeirra en heyji þess í stað ósleitilega baráttu gegn þeim. Flokkurinn leggur áherslu á það í kjarabaráttunni að alþýðufólk fái lifað mannsæmandi kjörum af dagvinnutekjum sínum.

Fyrir þessari kröfu sinni, lífvænleg laun fyrir dagvinnu, hefur flokkurinn barist á fundum innan verkalýðshreyfingarinnar, ráðstefnum hennar og þingum. Þá baráttu hafa félagar flokksins orðið að heyja gegn verkalýðsforingjum Alþýðubandalagsins og Alþýðuflokksins og hana harða.

Samþykkt hefur verið að setja kröfuna um lífvænleg laun fyrir dagvinnu á oddinn í kjarabaráttunni, á félagsfundi Dagsbrúnar, á verkalýðsmálaráðstefnu Sóknar, á síðasta þingi Verkamannasambandsins og víðar. En efndirnar af hálfu verkalýðsforkólfanna í verki eru svik á samþykktum verkafólksins.

Þeir hika ekki við að brjóta lög verkalýðshreyfingarinnar við sína iðju, að brjótast áfram á herðum verkalýðsins til hagbóta fyrir sjálfa sig og sína flokksklíku.

Það hefur marg sýnt sig bæði í pólitískri og faglegri baráttu verkalýðsins, að hvorki Alþýðubandalagskratarnir né Alþýðuflokks meta hagsmuni verkalýðsins til jafns við sína eigin. Þessir tveir flokkar eru höfuðstoð auðvaldsins í þjóðfélaginu og reka erinda þess með valdníðslu, stéttasamvinnustefnu og úrtölum innan verkalýðshreyfingarinnar. Þeir bera ábyrgð á því að verkalýðshreyfingin er hvorki faglega né pólitískt sterk. Þó áróðursmenn þessara flokka segi að verkalýðshreyfingin sé faglega sterk en pólitískt veik, vita almennir félagar í verkalýðsfélögunum betur. Þeir verða að búa við að ekki eru haldnir félagsfundir, allar ákvarðanir eru teknar af forystumönnunum sem hafa alræðisvald og baráttuaðgerðir gegn atvinnurekendum eru máttvana og árangurinn því oft þannig að þær koma harðar niður á verkafólkinu en auðvaldinu.

Áróðursmennirnir halda fram nefndri skoðun vegna þess að Alþýðubandalagskratar og Alþýðuflokks eru í flest öllum valdastöðum í verkalýðshreyfingunni en þeir eru óánægðir með að hafa ekki nægilega feitt upp úr kjötkötlunum hjá ríki, bæ og sveit.

Því sækjast þeir svo mjög og fyrst og fremst eftir atkvæðum frá verkalýðnum í kosningum, þó þeir níðist á honum á svo margan hátt sem raun ber vitni.

Því verður að berjast gegn þessum borgaralegu flokkum jafnframt því sem baráttan er háð gegn atvinnurekendum og ríkisvaldi þeirra. Og fyrir þeirri baráttu mun Kommúnistaflokkurinn beita sér, gegn auðvaldi, stéttasamvinnu og heimsvaldastefnu.



Öreigar og kúgaðar þjóðir heims sameinist!

# Stéttabaráttan



Útg: Kommúnistaflokkur Íslands m-l.
22.tbl. 7.árg. 30.5. 1978

STÉTTABARÁTTAN
-kemur út vikulega-
Sími: 27810.
Gíró: 27810-6.

Ábyrgðarm: Sigurður Ingi Andrésson.



# Sálrœnn hernaður í Palestínu 1948

Þann 9. apríl 1948 réðust vopnaðar sveitir úr Lehi og Irgun, hryðjuverkasamtökum síonista á bæinn Deir Yasin, utan við Jerúsalem. 254 bæjarbúar, karlar, konur og börn voru myrt. Þeir sem eftir lifðu í þessum friðsamlega bæ, voru teymdir um götur Jerúsalemborgar í "sigurgöngu" síonistanna.

Markmið síonistanna var að hræða Palestínuaraba til að flýja frá heimilum sínum, eignum og landi. Þetta fjöldamorð náði tilgangi sínum. Á næstu mánuðum flýðu 800.000 Palestínumenn föðurland sitt til að forðast hryðjuverk síonista.

Fjöldamorðið í Deir Yashin var liður í sókn síonistanna gegn palestínumönnum, sem gerð var til að reka þá á flótta fyrir stofnun gyðingaríkisins.

Gyðingar voru aðeins um þriðjungur íbúa Palestínu á þessum tíma og þeir réðu 7% landsins.

Til þess að "hin landlausa þjóð" gæti sett upp sitt "þjóðarheimili" þurfti að breyta Palestínu í "landið án þjóðar" sem síonistunum var svo tíðrætt um. En Palestína var ekki óbyggt landssvæði, það var síonistunum vel kunnugt. Þeir létu það þó ekki skyggja á glansmyndina af gyðingaríkinu þar sem hin hrjáða þjóð gæti um síðir búið við frið. Þeir kusu að reka palestínuarabana, frumbyggja landsins á flótta til að rýma til fyrir landflótta gyðingum.

SÅLRÆNN HERNAÐUR.

Sálrænn hernaður var byrjaður fyrir stórárásina 1948. Markmiðið var að brjóta þjóð-

framhald á síðu 2



Með vopnum frá Ísrael halda fasísku hægriöflin ógnarhendi yfir alþýðunni



Gunnar Andrésson



Sigurður Jón Ólafsson.

# Sendum málsvara verkalýðsins inn á þing

# Undirbúnininingsstarf KFÍ-ml að kosningum, unnið af fullum krafti

Fjölmargir félagar og stuðningsmenn hafa verið skipulagðir í vinnuhópa er vinna að undirbúningi kosninganna. Þrír aðalhópar eru að störfum, en þeir eru Kjörskrárvinnuhópur, Áróðurshópur og Fjáröflunnarhópur. Starf þessara hópa hófst fyrir rúmum hálfum mánuði, og alltaf vantar fleiri félaga til starfa.

Það ætti að vera óþarfi að undirstrika það að mikil vinna liggur fyrir, við þurfum fleira fólk til starfa. Kommúnistaflokkurinn verður að koma með sterka stuðningsyfirlýsingu úr næstu kosningum, það verður mælikvarði á þroska verkalýðsstéttarinnar.

Þeir sem vilja koma í undirbúningsstarf fyrir flokkinn geta skráð þátttöku sína í síma 22366 og 28802

Einnig er hægt að hringja í síma bókabúðarinnar Rauða Stjarnan 27810, eða heim til einhverra frambjóðenda.



Kosningaundirbúningurinn í fullum gangi enda mikið að gera.




## Keflavíkurganga herstöðvaandstæðinga verður 10. júní

## Sendinefnd frá KFÍ í Kína

Fjögurra manna sendinefnd KFÍ, undir forystu Gunnars Andréssonar formanns KFÍ, hefur verið í heimsókn í Kína.

Dvalist var í Kína í 20 daga, frá 5.-25. maí.

Sendinefndin átti viðræður í Peking, m.a. við Li Yi Mang varaformann alþjóðadeilda miðstjórnar KFK. Viðræðurnar voru vingjarnlegar og árangursríkar.

Sendinefndin heimsótti auk Peking, Sjanghai, Sjangsja, Sjásjan og Gvilin.

Nánar verður gerð grein fyrir þessari heimsókn síðar.

## xK

## Stefna flokksins

# Jafnréttismál

Lögum samkvæmt hafa konur sama rétt og karlar t.d. kveða þau á um að eigi skuli mönnum mismunað eftir kyni til starfsvals.

Í því skyni er atvinnurekendum bannað að auglýsa sérstaklega eftir öðru hvoru kyninu. En eins og oft vill verða um lög sem eru auðvaldinu í óhag er þeim lítt sinnt. Þó svo að í auglýsingum eftir "starfskrafti" sé ekki getið um æskilegt kyn umsækjanda er atvinnurekanda í lófa lagt að velja úr hópi umsækjenda þann sem hann vill fá í vinnu, konu eða karl.

Í kjölfar jafnréttislaganna var jafnréttisráði komið á fót. Skyldi það sjá um að lögum yrði framfylgt og einnig að taka á móti kærum og afgreiða þær. Í ráði þessu sitja handbendlar auðvaldsins og er því augljóst að það hefur legið á liði sínu. Eina málið sem það hefur afgreitt féll alþingi í hag.

Konur búa við öryggisleysi á vinnumarkaðinum. Störf sem konur vinna eru metin til lægri launa t.d. eru konur yfirleitt lægst launaðar á skrifstofum, á sjúkrahúsum og í verslunum. Konur eru einnig á lægstu launatöxtum Iðju.

Konur eiga alltaf yfir höfði sér að verða sagt upp ef þær eru barnshafandi eða börnin veik, þar sem móðirin er alltaf talin bera ábyrgð á barninu. Fæðingarorlof er enn ófullkomið. Stefna á að

framhald á síðu 6